Gamansamr

# Qvedlingr

um vorn gamla

# Forfødr Nóa,

hvar í honum er hrósat, sem gudhræddum og rettlát-
um Fødr, samt þá tid, hann lifdi, af øllum
virdtr, þótt hann fengi litit ámæli fyrir dryck-
iuskap. Hann var þó einn stiórnandi
Herra yfir allri Verølld, þá tid
hann var i Orkinni.



Landsbókasafn
Islands

Kaupmannahøfn, 1787.
Prentadr hiá Johanni Rudolphi Thiele.

1.

Herra Nói, Herra Nói, hrós og æru bar:,:
Enn nú meirr eg inni, allir leggi í minni,
Herra Nói, H. N. hann vor fadir var.

2. Gamle Nói,:, gudhræddr og vís,:,
Mikilsvirdtr madr, mørgum velviliadr,
Þótt hann dryckí,:, þá samt bar hann prís.

3. Alldrei drack hann,:, ofmikit í senn,:,
Utan einusinni á hann trú'eg rinne;
Glappaskotin,:, gángaz svo vid enn.

4. Var þat undr,:, vil eg spyria at,:,
Þótt hann tæki Tárit tíusinn um árit,
Þar hann hafdi,:, Þrúguna plantad?

5. Þat var gledi,:, þá hann sat vid bord,:,
Stóru staupin hringdu, stundum fløskur klingdu,
Spar ei vínit,:, spill ei, var hans ord.

6. Þá var gledi,:, þegar veizlan stód,:,
Allir giørduz gladir, géstir trakteradir.
Nýa vínit,:, nærdi heilu þiód.

7. Einvallz herra,:, yfir heilum siø,:,
Manneskium oz meiru, fuglum, dýrum, fleiru,
Var hann siálfr,:, vel um árin tvø.

8. Villtu vinr,:, vita hvar hann sat,
Borgin var einn Bátr, búftad nam réttlátr,
Herra Nói,:, hæzt á Ararath.

9. Heili jardar,:, hnøttrinn þá var,:,
Undir einu ríki, eptir þornat díki,
Fadir Nói,:, frægr prísinn bar.

10. Fadir Nói,:, færdi ærit stát;
Af því lof hans lifir, lend og sió hann yfir,
Fram og aptr,:, fór á sínum Bát.

Ort af

E. B.

